# Inngangsorð:

Höfuðmarkmið KSML í dag er baráttan fyrir myndun Kommúnistaflokks á Íslandi. Sá klofningur sem er á vinstri kantinum setur okkur það verkefni að sameina alla heiðarlega kommúnista undir einu merki, en afhjúpa og einangra klofningsöfl. Þetta þýðir að allar umræður um sameiningu marxista-lenínista og einingu í baráttunni verða að fara heiðarlega fram og fyrir opnum tjöldum. Þessar umræður verða að vera skipulegar og miða að því að ná árangri en ekki að því að sundra og rífa niður. Til að vinna að þessu hefur ritstjórn ákveðið að opna síðu í Stéttabaráttunni sem þjónað geti sem vettvangur fyrir þessar umræður. Hún stendur öllum opin sem vilja tjá sig um þessi vandamál íslenskrar byltingahreyfingar. Sökum takmarkaðs rúms í blaðinu eru þeir sem senda inn greinar beðnir um að hafa þær ekki lengri en 2-3 vélritaðar blaðsíður (stærð A4). Það er von ritstjórnar að sem flestir taki þátt í þessum skoðannaskiptum. Þær greinar sem hér birtast endurspegla að nokkru þær skoðanir sem fyrirfinnast innan KSML í dag.

-/ritstj.

## Úr Verkalýðsblaðinu:

# KG svarað

Í 5. tbl. Stéttabaráttunnar ritar KG grein um EIK(m-l) skv. fyrirsögn. Fjallar hún aðallega um KSML, þrátt fyrir nafnið. Nokkrar fullyrðingar KG þarfnast athugasemda, mjög fáorðra.

1. Aðeins lítill hluti félaga EIK(m-l) var áður í Fylkingunni, ekki "sem næst öll" samtökin.

2. EIK(m-l) hefir rekið leshringi, átt þátt í að skipyleggja og reka Baráttusamtök á Akureyri, starfað í Vietnam-nefndinni, samstarfsnefnd gegn Union Carbide, haldið opna fundi o.s. frv. Pólitík EIK(m-l) eru því ekki "pappírsgögnin ein".

3. Enginn félagi í EIK(m-l) hefir haldið því fram á prenti eða annars staðar, að hann álíti "uppgjör KSML við einangrunarsinna...vera fyrir áhrif sín." Uppgjörið við KSML(b) varð sumarið ´74.

4. Samtök sem telja sig vera marx-lenínísk, kommúnísk o.s.frv. þurfa ekki að vera það, ef pólitík þeirra er röng í höfuðatriðum. KG heldur vonandi ekki, að EIK(m-l) telji KSML kommúnísk samtök, þó þau segist vera það, eða gagnkvæmt. Þess vegna getur KG ekki ásakað EIK(m-l) fyrir að "afneita KSML og vilja ekki sameinast KSML." Við höfum a.m.k. fjórum sinnum boðið samvinnu og unnið saman a.m.k. tvisvar. Barátta og eining í skoðanaskiptum og starfi auðveldar framþróun réttrar stefnu.

5. EIK(m-l) hafna ekki byltingarsinnuðu forystuhlutverki verkalýðsins í baráttunni. Í "Baráttuleið alþýðunnar" - stefnuplaggi voru - er fjallað um þetta hlutverk á þrem síðum, 41-43. Flestir smáborgarar, millihópar og hálföreigar eru allt bandamenn verkalýðsins. Í málum eins og t.d. eyðingu byggðalaga geta einstaka kapítalistar átt þarna hlut að máli. "Stétt gegn stétt" skilgreinir ranglega hverjir eru vinir og hverjir óvinir verkalýðsins. "Vinnandi alþýða gegn einokunarauðvaldi" gerir það réttilega. Þetta vígorð afneitar ekki verkalýðnum sem meginafli byltingarbaráttunnar. Ef KG hefði nennt að birta meira úr ræðu Brésneffs, hefði orðið augljóst, að kremlverjinn er að tala um friðsamlega, þingræðislega "byltingu" í samvinnu við krata. Varla dugar KG lítil tilvitnun í Brésneff til að "sanna" að EIK(m-l) séu "nútíma endurskoðunarsinnasamtök"? Hins vegar mætti spyrja, hvers vegna samherjar vorir kínverjar, sem eru einarðir andstæðingar kremlverja, hafi bróðurleg samskipti við þær bræðrahreyfingar EIK(m-l) á norðurlöndum, sem hafa sömu kenningar um þjóðfélagsaðstæður í sínum löndum?

Og hvers vegna æskja KSML samskipta við sænska kommúnistaflokkinn, úr því að hann heldur fram sömu "endurskoðunarstefnu" og EIK (m-l)?

6. Í öllu útgáfuefni EIK(m-l) er spjótum beint að auðhyggju Sovétríkjanna og heimsvaldastefnu þeirra. KG veit fullvel, að EIK(m-l) stóðu fast á því, að krafa eins og "Sovétríkin burt úr Tékkóslóvakíu" væri höfð með í aðgerðum 1. maí - og fékk því framgengt í viðræðum við samtök, sem ekki hafa baráttu gegn sósíalheimsvaldastefnu á stefnuskrá. Ú því að KG leyfir sér það hetjubragð að vitna í ummæli "einhvers" í EIK(m-l) til stuðnings fullyrðingunni um, að EIK(m-l) vilji ekki berjast gegn kremlverjum - vitnum við í bréf KG til EIK(m-l) frá 28.4 ´75:

> "Álit okkar (miðstjórnar KSML) er, að EIK(m-l) séu harðir andstæðingar heimsvaldastefnunnar og því bjóðum við ykkur velkomin í Rauðan framvörð 1975."

KG er í miðstjórn KSML og á ekki að brjóta félagsagann.

EIK(m-l) álítur grein KG ekki vera annað en fljótfærnisbragð manns, sem veit gagnrúni EIK(m-l) vera rétta.

Við lítum ekki á greinina sem afstöðu KSML.

## Skoðanaskipti Skoðanaskipti Skoðanaskipti

# Fáein orð til áréttingar!

Í málgagni EIKm-l, Verkalýðsblaðinu 2. tbl. 1. árg. er vikið nokkrum orðum að grein undirritaðs, sem birtist í síðasta tölublaði Stéttabaráttunnar. Augljóslega er greinarhöfundi í Vbl. mjög umhugað að verja heiður samtaka sinna til síðasta blóðdropa og lítur vafalítið á skrif mín sem "árás" á EIKm-l. Alla vega lítur hann ekki á þau sem framlag til fræðilegra umræðna um rétta stefnu milli samtakanna tveggja, svo mikið er ljóst af ákefðinni í svari hans, þegar hann ber sem óðast slyðruorðið af EIKm-l. Nú er það svo, að það væri barnaleg einfeldni af EIKm-l, að ætla að rúmlega 5 mánaða tilvist samtakanna og útgáfa "Baráttuleiðar alþýðunnar" sé hið eina rétta, lausnin sé fundin á vandamálum íslensku verkalýðshreyfingarinnar í fræðum og starfi. Þannig talar aðeins sá, sem snýr sér ekki að verkefnum sósíalísku byltingarinnar af alvöru, heldur skoðar þau frá sjónarhorni bókarinnar.

### Engin ástæða til hvumpni

Greingarhöfundur hagar sér eins og hvumpin jómfrú, sem móðgast af því að henni er ekki sýnd tilhlýðileg virðing. Hann vill ekkert kannast við að EIKm-l, hafi gengið "sem næst í heilu lagi úr Fylkingunni". Má kannski minna hann á, að "Baráttuleið alþýðunnar" er upphaflega skrifuð sem innanfélagsplagg í Fylkingunni í uppgjörinu við trotskyismann? Eða að formáli þessa rits fjallar um þróun og framvöxt EIKm-l úr skauti Fylkingarinnar? Það er engin ástæða til feimni í þessu sambandi, EIKm-l á einmitt hrós skilið fyrir uppgjör sitt við Fylkinguna, eins og ég bendi á í fyrri grein minni. Þessu var alls ekki ætlað að koma við nein "kaun", enda vissi ég ekki að slík "kaun" væru til staðar fyrr en nú. Þá er greinarhöfundur kappsfullur í meira lagi, þegar hann vill sanna að EIK m-l sé meira en "pappírsgagn" og lætur sig hafa, að telja upp allt starf EIKm-l til þess, því til sönnunar. Hér var ekki ætlun mín að sakast við EIKm-l fyrir að hafa ekki verið til nema skamma stund, heldur hitt að benda á, að reynslan af byltingarsinnuðu starfi er afgerandi, ekki fræðilegar útlistanir. Forvígismönnum EIKm-l er fullkunnugt um að fræðikenning marxismans er því aðeins sönn, að hún sýnir það í verki með því að breyta heiminum á byltingarsinnaðan hátt. Ég vona að þeir líti ekki svo stórt á sig, að þeir haldi fræði sín undanþegin þessum sannleika. Þegar ég ræddi um að EIKm-l liti á, "uppgjör KSML við einangrunarstefnuna vera fyrir sín áhrif" studdist ég að vísu ekki við tilvitnun, og er skylt að skýra nánar hvað átt er við. Ég átti við umsögn í bréfi frá 20, jan. 1975 frá EIKm-l til KSML, þar sem sagt er að eftir að KSML hafi tekið að gera upp við einangrunarstefnuna, hafi "samtökin tvö málgast". Ég álít ekki að KSML hafi nálgast EIK m-l með uppgjöri sínu við vinstri stefnuna, að öðru leyti en því, að samskonar barátta fór fram innan Fylkingarinnar um svipað leyti. Hins vegar er rétt, að félagar EIK m-l hafa ekki lýst því beinlínis yfir enda væri það fásinna.

Það er vel, að greinarhöfundur bendir sjálfur á að "Samtök, sem telja sig vera marx-lenínísk, kommúnísk o.s.frv., þurfa ekki að vera það, ef pólitík þeirra er röng í höfuðatriðum." Hann væri kannski fús til að skýra líka frá ástæðunni til þess, að núverandi forvígismenn EIKm-l fullyrtu í heil tvö ár, að Fylkingin væri marx-lenínísk samtök og meira að segja þau einu hérlendis: Hvað varðar samstarf EIK m-l og KSML hefur það að mínu áliti verið of lítið til þessa. Og ég fagna því vissulega ef baráttueining getur tekist með þessum tveimur samtökum. En slík eining hefur alls ekki í för með sér, að gagnrýni eða skoðanabarátta verði látin niður falla og greinarhöfundur getur ekki leyft sér neina hvumpni ef til hennar kemur.

### Vinir og óvinir

Greinarhöfundur kostar kapps að sýna fram á, að taktískt vígorð Kominterns um fjöldaára - "Stétt gegn stétt" - skilgreini ranglega hverjir eru vinir og hverjir eru óvinir verkalýðsins. Hann nefnir ekki í hverju villur Kominterns voru fólgnar að mati EIKm-l, en bendir á að kínversku kommúnistarnir hafi samskipti við "þær bræðrahreyfingar EIKm-l á Norðurlöndum, sem hafa sömu kenningar um þjóðfélagsandstæður í sínum löndum." - þ.e. "alþýðan gegn einokunarauðvaldinu". Af einhverjum ástæðum minnist greinarhöfundur ekki á samskipti kínverja við KPDm-l í Þýskalandi, sem draga taktík sína saman í vígorðið "stétt gegn stétt", kannski það myndi veikja þess röksemdafærslu hans? Sannleikurinn er nefnilega sá, að vandamál íslensku verkalýðshreyfingarinnar verða ekki leyst með "yfirfærslu" á pólitík kommúnista á norðurlöndum eða í Þýskalandi, mat á hlutlægum aðstæðum á Íslandi hlýtur að liggja þar til grundvallar. Við treystum kommúnistum á norðurlöndum og í Þýskalandi til að ráða fram úr pólitískum vandamálum verkalýðshreyfingarinnar þessara landa og vitum fullvel að þeir starfa ekki eftir neinni töfraformúlu, heldur eftir þjóðfélagslegum raunveruleika og samkvæmt byltingarsinnuðum hefðum heimshreyfingar kommúnista. Þess vegna er röksemdarfærsla að þessu tagi varla gagnrýnisverð, en hitt skiptir meiru að íslenskir kommúnistar skilji stéttaandstæður hérlendis og dragi þær saman í baráttuvígorð á réttan hátt. Leyfist mér að vitna í "Baráttuleið alþýðunnar" - stefnugrundvöll EIKm-l - máli mínu til stuðnings? Eftir allnokkrar vífillengjur um lágframleiðni komast höfundar hennar að þeirri niðurstöðu að vígorðið "stétt gegn stétt" sé rangt. Skömmu síðar, á bls. 49, vitna þeir síðan í 9. flokksþing KFK þar sem segir: um meginmóthverfur í heiminum: "Meginmóthverfur í heiminum: " Móthverfan milli undirokuðu þjóðanna annarsvegar og heimsvaldastefnu og sósíalheimsvaldastefnu hins vegar; móthverfan borgarar - öreigar í auðvalds og endurskoðunarlöndunum; ..."

Þarf að draga það í efa, að mikilvægasta móthverfan í heimsvaldalöndunum er á milli borgara og öreiga? En hvers vegna hamast þá EIKm-l gegn vígorði sem gengur út frá þessari mikilvægustu móthverfu á Íslandi og var þar að auki baráttuvígorð Kominterns um langan aldur? Er hér um einstrengingslega þröngsýni að ræða, eða fylgja EIK m-l virkilega áliti nútíma endurskoðunarstefnunnar? Ég skal ekki dæma um það, en hlutlægt þjónar barátta EIKm-l gegn vígorðinu "Stétt gegn stétt" taumdrögum nútíma endurskoðunarstefnu, í hvoru tilfellinu sem er. Það er nefnilega ekki til nein allsherjar formúla fyrir stéttarbaráttunni, hún ræðst af sérkennum hvers lands fyrir sig.

Þá hefur greinarhöfundur misskilið mig hrapalega er hann álítur að mismunurinn á Brésneff og EIKm-l sé samkvæmt mínu mati, sá að báðir hafi sömu og væntanlega "réttu" skilgreiningu á ástandinu, en EIKm-l berjist fyrir vopnaðri framkvæmd hennar, en Brésneff-klíkan þingræðislegri. Það sem fyrir mér vakti, er ég tók tilvitnun í ræðu Brésneffs var að sýna fram á, að endurskoðunarsinnar álíta að markmiðin með samfylkingu verkalýðsins og meginþorri bænda og menntamanna sé andeinokunarfylking en ekki barátta fyrir alræði öreiganna. Í þessu liggur stórkostleg fölsun á marxismanum-lenínismanum þar sem byltingarbroddarnir eru dregnir úr honum og hann gerður að aumlegri skopmynd. Sömu sögu er að segja um "ríki alþýðunnar" sem Kremlverjar halda mjög á lofti, í "Baráttuleið alþýðunnar" er talað um "alræði alþýðunnar" á bls. 30. Slíkt alræði er ekki til í framþróuðu heimsvaldaríki eins og Íslandi það á sér aðeins stað þar sem markmið byltingarinnar er nýlýðræði. Þá er líka broslegt að greinarhöfundur fullyrðir að ég hafi ætlað mér að "sanna" að EIK m-l séu "nútíma endurskoðunarsinna samtök". Þessi orð eru ekki mín, heldur tilbúningur greinarhöfundar. Ég benti aðeins á, að hafi EIK m-l hugmyndirnar um "alræði alþýðunnar" að leiðarljósi, draga þau taum nútíma endurskoðunarstefnu. Það er mér ekkert feimnismál að viðurkenna, að ég álít EIKm-l marx-lenínísk samtök, þó svo ég hafi margt og mikið við stefnu þeirra að athuga. Ég verð líka að viðurkenna að ég hef ekki sagt að sænski kommúnistaflokkurinn haldi fram sömu "endurskoðunarstefnu" og EIKm-l. Það er ekki verkefni mitt að segja sænska kommúnistaflokknum fyrir verkum, en EIKm-l virðist halda að þau séu á grænni grein, svo lengi sem þau halda sér við skilgreiningar erlendra kommúnistaflokka, því að öll fræðileg gagnrýni á EIKm-l er samstundis sögð vera árás á "bræðrasamtök" þeirra á norðurlöndum. Þetta er bros legt og kemur málinu ekkert við. Hér eru verkefni íslensku byltingarinnar til umræðu og EIK m-l ætti að mínu áliti að ræða þau af fullri hreinskilni og einurð í stað þess að gera tilraunir til að

FRH. á bls. 6

# Reynsluleysi og fræðilegur ruglingur EIK(m-l)

Grein þessa ber að líta á sem framhald þeirrar fræðilegu umræðu, sem hafin var í Stéttabaráttunni fyrir nokkru um stefnu Einingarsamtaka kommúnista (m-l). Umræða af slíku tagi er mjög nauðsynleg fyrir okkur marxista-lenínista til að þróa áfram fræðikenninguna við íslenskar aðstæður og móta afstöðu okkar til annarra flokka og samtaka á vinstri kantinum.

Nú er það álit margra, að ágreiningur KSML og EIK sé persónubundin illska milli viðkomandi. Slíkt er alrangt. Ágreiningurinn byggist fyrst og fremst á pólitískum atriðum, mörgum hverjum sem hafa afgerandi þýðingu fyrir stéttabaráttuna hér. Sameining þessara samtaka kemur því alls ekki til greina fyrr en leyst hefur verið úr þeim atriðum. KSML hafa hingað til getað losað sig við hægrihentistefnuna af sjálfsdáðum og þau munu ekki stökkva út í fenið vitandi vits. Umræða milli samtakanna er hins vegar mjög jákvæð. Sameiningu ísl. marxista-lenínista verður aldrei náð með hrokafullum fullyrðingum á þá leið, að þessir séu ekki marxistar-lenínistar fyrir fimm aura heldur afturhaldsmenn sem ekki sé hægt að koma tauti við o.s. frv.

KSML virða það við EIK, að þau afhjúpuðu trotskýismann í Fylkingunni og að þau hafa í mörgum grundvallaratriðum tekið upp marxíska-lenínska stefnu. En það er oft galli á gjöf Njarðar. EIK hafa stuðlað að auknum klofningi meðal kommúnista og þau hafa aðhyllst hægrisinnaðar kenningar á sviðum, sem varða grundvallarstarf okkar hér á landi.

(Ath.: Allar tilvitnanir í skoðanir EIK eru teknar úr bæklingi þeirra, Baráttuleið alþýðunnar.)

### Stéttaskilgreining EIK.

> "Eðli hinna tveggja höfuðstétta breytist ekki með heimsvaldastefnunni. Birtingarmynd grundvallarmóthverfunnar er sú sama. Eftir sem áður standa verkamenn gegn arðræningjastéttinni í heild, þrátt fyrir að móthverfurnar hafi skerpst innan hennar." (Maó Tse-tung: Um móthverfurnar).

Í þessari tilvitnun eftir Maó kemur skýrt fram afstaða marxismans-lenínismans til stéttaandstæðnanna á tímabili heimsvaldastefnunnar. Afstaða sem allir sannir kommúnistaflokkar í heimsvaldalöndum hafa fylgt hingað til (þ.á.m. Kommúnistaflokkur Íslands og Komintern). Í auðvaldsþjóðfélagi er grundvallarmóthverfan, sú móthverfa sem er höfuðorsök allrar þjóðfélagslegrar þróunar; launavinna og auðmagn. Það er andstæðan sem er á milli einkaeignar auðstéttarinnar á framleiðslutækjunum og félagslegrar framleiðslu verkalýðsins. Þess grundvallarmóthverfu viðurkenna EIK. En þá kenningu Maós og allra sannra kommúnista, að stéttarleg speglun hennar innan þjóðfélagsins hljóti að vera höfuðmóthverfan viðurkenna þeir ekki. Kenning þeirra hljóðar: Borgarastétt gegn verkalýðsstétt er höfuðmóthverfan í frumstæðu auðvaldsþjóðfélagi, þar sem framleiðslan er ekki komin á hátt stig, en einokunarstigið flytur með sér höfuðmóthverfuna einokunarauðvald-alþýða (einokunarvana auðvald-smáborgarar-verkafólk). Og þeir viðurkenna ekki að verkamenn verði að standa gegn auðstéttinni í heild, þrátt fyrir að andstæðurnar hafi skerpst innan hennar.

> "Höfuðmóthverfan fellur ekki lengur saman við grundvallarmóthverfuna, heldur er mjög mótuð af aðstæðum innan auðvaldsins sjálfs."

Dálagleg endurskoðunarstefna þetta. Í fyrsta lagi er sú kenning, að höfuðmóthverfan samræmist aðeins grundvallarmóthverfunni í frumstæðu auðvaldsþjóðfélagi hreinn þvættingur. Víst er það satt, að hagsmunaárekstrar innan borgarastéttarinnar stórjukust með tilkomu heimsvaldastefnunnar, að höfuðmóthverfan innan auðstéttarinnar varð á milli einokunarauðvalds og einokunarlauss auðvalds. En þar fyrir er ekki hægt að gera þá móthverfu að höfuðmóthverfu sem meginþungi baráttunnar snýst um innan þjóðfélagsins sjálfs. Slíkt er úrtínslustefna. Maó tætir þessa kenningu í sig í ritgerð sinni Um móthverfurnar. Hann segir:

> "Þegar t.d. auðvaldsskipulagið þróast frá stigi hinnar frjálsu samkeppni að hæsta stigi sínu, heimsvaldastefnunni, verða engar breytingar á stéttareðli þeirra tveggja stétta, sem standa í grundvallarandstöðu hvor gegn annarri, þ.e. öreiganna og borgaranna, eða á eðli auðvaldsskipulagsins."

Það er ljóst öllum hugsandi verkamönnum, að þrátt fyrir efnahagslega árekstra milli atvinnurekenda, þá standa þeir allir sem ein heild gegn verkalýðsstéttinni. Við þurfum aðeins að líta á Vinnuveitendasamband Íslands og kjaradeilur til að komast að raun um það. Að skipta borgarastéttinni eins og Eik gerir, þ.e. að gera suma auðmenn að vinum vegna þess að þeir eru veikari efnahagslega en aðrir auðmenn er rakalaust með öllu og stórhættulegt fyrir stéttarbaráttu verkafólks.

### Þróunarstig íslenska auðvaldsþjóðfélagsins.

Í bæklingi sínum, Baráttuleið alþýðunnar, komast EIK að þeirri niðurstöðu, að íslenska auðvaldsþjóðfélagið sé á sínu efsta stigi, þróunarstigi einokunarauðvalds og heimsvaldastefnu. Þessi grundvallarniðurstaða er rétt og í samræmi við fræðikenningu marxismans-lenínismans. En ef við könnum nánar rökfærslu þeirra og útleggingu á þessari kenningu kemur annað í ljós. Þá fær fræðilegur ruglingur yfirhöndina, ruglingur, sem sýnir greinilega fram á, að EIK hafa ekki enn getað losað sig undan borgaralegum arfi hentistefnu-sósíalismans. Lítum nánar á kenningu þeirra:

FRH. á bls. 6

# „Þróum áfram sósíalismann og drekkum Pepsi" segir Brèsjnev!



Bandaríska gosdrykkjafyrirtækið Pepsi-Cola opnaði nýverið átöppunarverksmiðju í Novorossisk við Svartahag. Samstarf Rússa og Bandaríkjamanna byggir á því, að Sovétmenn kaupa inn sykurvökvann, sem drykkurinn er bruggaður úr, og átöppunarverksmiðjan er í þeirra eigu, en undir firmanafninu Pepsi-Cola.

Verksmiðjan á samkvæmt áætlun að átappa 2,6 milljónir kassa af drykknum á ári, en hver flaska er seld á verði sem samsvarar um 100 krónum íslenskum. Í borgun fyrir iðnaðarleyndarmálið fær Pepsi-Cola fyrirtækið aukreitis einkarétt á sölu og dreifingu Stolichnaja vodkans á Bandaríkjamarkaði.

Það var í maí á síðasta ári sem fyrsta flaskan af Pepsi var átöppuð í Sovétríkjunum og í tilefni dagsins kom forstjóri Pepsi-Cola Company, Donald M. Kendall, til Sovétríkjanna til að geta fært Leonid Brefsnev fyrstu flöskuna og til að skála í blöndu af vodka og Pepsi fyrir heilladrjúgu samstarfi. Í förum með honum var öll stjórn fyrirtækisins eins og hún lagði sig, og eftir að hafa spjallað við Brefsnev góða stund var haldinn stjórnarfundur Pepsi-Cola í sölum sovéska iðnaðarmálaráðuneytisins. Meðal mála á dagskrá fundarins var skipun stjórnar í nýju verksmiðjunni og launamál.

Svo vitað sé er þetta í fyrsta skipti sem bandarískt fyrirtæki heldur stjórnarfund á sovéskri grund og ræðir þar stjórnun fyrirtækis og launamál, sem fyrir valdatöku endurskoðunarklíkunnar voru í höndum verkamannanna í verksmiðjunni. En skyldi þetta vera í síðasta skiptið sem slíkt hendir?

(ÓI þýddi og endursagði úr "Fortune", ágústhefti 1974)

# Sjónarvottur í Phnom Penh: „Fréttir um blóðbað eru lygar"

Eins og flestir muna birtu borgarablöðin undir risafyrirsögnum fréttir um blóðbað í Phnom Penh eftir að þjóðfrelsisöflin höfðu tekið borgina. Flestar þessar fréttir voru hafðar eftir meðlimum í fréttamannahópi sem kom til Tailands tveim vikum eftir fall borgarinnar. Hér á eftir fer frásögn Richards Boyle, stríðsfréttaritara Pacific News Service, sem var einn fréttaritaranna sem dvöldust í Franska sendiráðinu í Phnom Penh. Frásögn hans var skrifuð 19. maí í Bankok:

Sem síðasti bandaríski fréttamaðurinn til að yfirgefa Kambódíu þann 8. maí var ég vitni að bardaganum um Phnom Penh, talaði við hundruð manna í Franska sendiráðinu, og fór landleiðina gegnum Kambódíu til Tailands í síðustu bílalestinni út. Sögur um blóðbað sem aðrar fréttastofur sendu frá sér, er ekki hægt að staðfesta og allt bendur til þess að þær séu hreinar lygar.

Til dæmis sendi AP frá sér fréttir um að frönskum konum hefði verið nauðgað og þeim misþyrmt. Ég eyddi tveim vikum í bráðabirgðasjúkrahúsi Framska sendiráðsins og talaði við franska lækna og hjúkrunarkonur þar. Ekkert okkar sá nokkru sinni fórnarlamb nauðgunar.

Eftir minni reynslu að dæma, voru hermenn þjóðfrelsisherjanna mjög liðlegir. Til dæmis má nefna, að fjölmargir "sunnudagaveiðimenn", franskir málaliðar sem farið höfðu á "þjóðfrelsisliðaveiðar" sér til ánægju í stríðinu, og bandaríkjamenn í tengslum við CIA og DIA (leyniþjónusta varnarmálaráðuneytisins) leituðu hælis í Franska sendiráðinu. Frelsisherirnir vissu nöfn þeirra og sögðu í útvarpsútsendingum að þekktir "stríðsglæpamenn" væru í felum í sendiráðinu. En samt sem áður var þeim öllum leyft að yfirgefa landið í öryggi, því þjóðfrelsisöflin vildu forðast árekstra á alþjóðavettvangi.

Einn bandaríkjamaður, Douglas Sapper, fyrrverandi Grænhúfa (Green beret), montaði sig af því svo allir heyrðu að hann hefði í hyggju að fara með vélbyssu að vopni að sendiráði bandaríkjanna og reisa þar ameríska fánann og "drepa eins marga komma og ég get." Þrátt fyrir þetta var Sapper nú einn þeirra fyrstu til að leita hælis í Franska sendiráðinu, og honum tókst að komast úr landi með fyrstu bílalestinni ásamt Sydney Schanberg fréttaritara New York Times og sjö sovétmönnum. Rauðu Khmerarnir sem vissu um hótun Sappers létu hann fara úr landi ásamt öðrum bandarískum blaðamönnum sem altalað var að ynnu fyrir bandarískar leyniþjónustur. Sapper vinnur nú hjá AP fréttastofunni.

## Falsanir í blöðum

Það hafa verið annarskonar rangfærslur í fréttum frá Kambódíu. AP bað mig um að sjá um fréttastofu þeirra; borga starfsliði þeirra laun og senda þeim fréttir um leið og PNS eftir hina skyndilegu brottför bandaríkjamanna frá Kambódíu. Ég sendi fréttir af því sem ég fékk að vita frá innfæddum starfsmönnum: Rauðu Khmerarnir sögðu stjórnarhermönnum að þeir væru bræður og skyldu ekki verast á banaspjótum.

Það voru frásagnir sjónarvotta sem unnu fyrir AP að stjórnarhermenn og þjóðfrelsisliðar föðmuðust á vígvellinum. Allt sem ég sendi um þetta var ritskoðað af AP.

Eftir að þessum frásögnum var stungið undir stól, kom í fréttum frá AP að þjóðfrelsisherinn brenndi niður kofa flóttamann[a] tveim dögum fyrir fall Phnom Pen[h], en innfætt starfslið AP sem heimsótti vígvöllin allan þennan dag gat ekki staðfest þessar fréttir.

Ég varð vitni að því er fyrstu hermenn þjóðfrelsishersins komu inn í Phnom Penh úr norðri og sá harðan bardaga fyrir utan dyr Franska sendiráðsins. Fyrstu framlínusveitunum sem aðeins töldu 200 hrausta hermenn var fagnað sem frelsurum af stúdentum og borgurum Phnom Penh. Án traustsstuðnings íbúa Phnom Penh, sem reistu hundruði hvítra fána á loft og hertóku brynbíla stjórnarhersins, hefðu hinum 200 hermönnum reynst ógerlegt að taka borgina með svo litlu mannfalli.

Rauðu Khmerarnir komu fram við mig og aðra blaðamenn með virðingu. Þrátt fyrir að mergir fréttmenn væru grunaðir um að vera njósnarar.

Mér var leyft að taka af þeim myndir að vild og það var aldrei gerð minnsta tilraun til að taka af mér filmur eða myndavélar.

Þegar við vorum að verða vatnslausir var mér og öðrum blaðamönnum gefið leyfi til að fara út að brunni við nálæga strætisvagnastöð og sækja vatn. En skipanir frakka voru á þá leið að við mættum ekki fara út fyrir sendiráðslóðina eða tala við Rauðu Khmerana. Eitt skipti komu tveir hermenn Rauðu Khmeranna í heimsókn til okkar og töluðu við okkur í nokkrar klukkustundir. Franskur öryggisforingi kom og rak þá út, þrátt fyrir að við vildum að þeir yrðu áfram.

## Nauðsyn nr. 1: Matur

Þá örlagaríku daga sem fylgdu töku borgarinnar sá ég Rauðu Kh merana hvetja íbúana til að yfirgefa borgina og tæma búðir af nauðsynjum. Hermennirnir útskýrð fyrir mér að þeim yrði leyft að koma aftur eftir að hafa eytt nokkrum tíma út í sveit við að rækta rís til að fæða íbúana. Margir kaupmenn voru greinilega æstir yfir að búðir þeirra skyldu tæmdar og þeim sjálfum þröngvað til að fara út í sveit að rækta rís, en þjóðfrelsisliðar sögðu að þeir yrðu að gera þessar ráðstafanir til að bjarga landinu.

Fyrir þennan tíma hafði borgin, sem stækkað hafði frá 600.000 íbúum í tvær milljónir íbúa sökum sprengjuárása hers Lon Nol á byggð svæðid til sveita, verið á barmi hungursneyðar. Þessvegna ákváðu Rauðu Khamerarnir að setja íbúa Phnom Penh til vinnu á ökrunum, til að forðast hungursneyð.

-/ÓI þýddi úr Guardian no. 33.

# Hvern eru forráðamenn ÍSAL að blekkja?

Eins og komið hefur fram í fréttum lét héraðslæknirinn í Hafnarfirði stöðva vinnu við að ryðja ýmiskonar úrgangsefnum, gjalli, súráli og skautmolum, í sjó fram við Álverið í Straumsvík. Í þessum úrgangsefnum er að finna m.a. blásýrusambönd, sem eru skaðleg sjávarlífi. Forráðamenn verksmiðjunnar hafa borið því við að þetta væru mistök sem þeim hafi verið ókunnugt um, og komið hefur fram í fréttum að þeir sem starfið unnu hafi verið afleysingamenn sem ókunnugir voru meðferð úrgangsefna. Manni verður spurn: Er því þannig farið að í Álverinu geti verkamenn ráðskast með hættuleg efni að vild og hent þeim í sjónn ef þeim sýnist svo? Nei, því er ekki þannig farið. Í Staumsvík er mikið verkstjóraveldi og hver silkihúfan ofar annarri gefur skipanir sem verkamönnum er ætlað að framkvæma. Allur fyrirsláttur sem ætlað er að koma sökinni á verkamenn er því ekkert annað en aumleg tilraun til að reyna að sleppa frá sök í málinu. Meðfylgjandi mynd er tekin við Álverið í lok mars sl. og sýnir vinnu við undirbúning þess að úrgangsefnunum yrði rutt í sjó fram, og sjórinn látinn skola hættuleg efnasambönd



burtu. Þetta sýnir, að úrgangsefnin voru sett í sjóinn af ráðnum hug og með fullri vitund verkstjóra og yfirmanna. Hvern eru forráðamenn ÍSAL að reyna að blekkja?

-/ritstj.

Framhald af forsíðu

# CIA-rannsóknin í USA: skopleikur settur á svið af stjórnvöldum!

og fjármagna aðgerðir og stefnu leyniþjónustunnar.

2. Lyman Lemnitzer, hershöfðingi. Einn af æðstu mönnum Pentagon í stjórnartíð Kennedy og Johnsons, formaður herráðsins, meðlimur öryggisráðs Bandaríkjanna og æðsti yfirmaður herafla Nató í Evrópu 1963-69. Herforingi í Kóreustríðinu. En það sem vafalaust olli því að Rockefeller valdi hann í nefndina er sú staðreynd að hann tók þátt í undirbúningi Svínaflóainnrásarinnar og aðgerðin varð að vera samþykkt af honum.

3. Erwin Griswold. Lögfræðingur dómsmálaráðuneytisins í stjórnartíð Kennedys og Johnsons. Vann líka fyrir fjármálaráðuneytið og var meðlimur í and-kommúnísku yfirheyrslunefndinni undir Mc Charty í Massachusett. En það sem gerði hann hæfan í augum Rockefellers var vafalaust það, að hann sótti fyrir hæstarétti rétt ríkisstjórnarinnar til að banna útgáfu Pentagon-skjalanna og að hann varði fyrir dómsstólunum "rétt" hersins til að njósna kerfisbundið um einstaklinga sem tóku þátt í hreyfingunni gegn Vietnam-stríðinu.

4. John Connor. Annar samstarfsmaður Rockefellers. Hann er aðalframkvæmdastjóri Allied Chemical sem er hápunktur fjármálaveldis Rockefellers, og situr í stjórn Chase Manhattan Bank (sem er í eigu Rockefellers). Á árum seinni heimsstyrjaldarinnar vann hann við byggingu kjarnorkusprengjunnar, þjónaði sem öryggisforingi og var sérlegur aðstoðarmaður Flotamálaráðherrans.

5. Lane Kirkland. Sem yfirgjaldkeri AFL-CIO (verkalýðssamband) var hann í aðstöðu til að koma á framfæri CIA-fé til "frjálsra" verkalýðsfélaga og stjórnmálamanna í Evrópu og S-Ameríku. Hann hefur líka setið í stöðum í Rockefeller-einokunarsamsteypunni. Hann vann fyrir Nixon við endurbætur sem stuðla áttu að betri hæfni varnarmálaráðuneytisins.

6. Edgar Shannon. Fyrrverandi forseti Virginíuháskóla. Hann var kennari í herfræði og flotatækni við Harvard og vann sem ráðgjafi hjá James Schlesinger, seinna Varnarmálaráðherra.

7. Ronald Reagan. Fyrrverandi ríkisstjóri Kaliforníu og margmillionari. Hann virðist einkum þjóna því markmiði innan nefndarinnar að friða mesta afturhaldið í SW-ríkjunum, sem kynnu að gera uppsteit út af uppljóstrunum nefndarinnar. Hann virðist helst vera einhverskonar málamiðlun milli hinna helstu stríðandi arma Republikanaflokksins.

Allir þessir menn hafa mikil tengsl við, og eru hluti af bandaríska einokunarauðvaldinu. CIA þjónar hagsmunum þess, og það eru hagsmunir þessara manna að ekkert sem skiptir máli komi fram við rannsóknina. Það er auðvelt að skella skuldinni á fráfarna forseta og gleymda embættismenn. CIA rannsóknin á að gera hreint fyrir dyrum CIA, "modernisera" hana í augum hins vestræna heims og gera hana betur færa um að þjóna hlutverki sínu. Bandaríski blaðamaðurinn Tom Wicker sem skrifar greinar í New York Times sagði þegar hann frétti hverhir ættu að skipa rannsóknarnefnd forsetans: "Þetta er eins og að setja geit í að gæta kálgarðs. Að láta hóp af svona mönnum rannsaka CIA er það sama og ætlast til að Mafían höfði mál gegn sjálfri sér fyrir glæpi."

-/ÓI þýddi og endursagði úr Guardian nr. 27, 1975.

Guðmundur J. Guðmundsson
Nóatúni 26
R.

Reitur til áskriftarmerkingar.




FÉLAGAR ÁSKRIFENDUR.

Ritstjórn vill brýna það mjög fyrir ykkur að þið gætið þess að tilkynna bústaðaskipti. Íslendingar eru mikil "flökkuþjóð" - menn eru sífellt að skipta um íverustað. Þess gætir í áskrifendaskrá Stéttabaráttunnar, við erum nú með nokkra tugi áskrifenda sem hafa trassað að tilkynna okkur breytingar á heimilisfangi og við getum ekki sent þeim blaðið þarafleiðandi. Lengst af voru það námsfólk á heimavistarskólum sem voru erfiðastir í þessu tilliti, en eftir að við beindum sérstökum áskorunum til þeirra um að tilkynna okkar sumardvalarstaði sína, hefur ástandið stórbatnað. Við skorum nú á alla aðra áskrifendur að gleyma ekki að tilkynna bústaðaskipti - það má m. a. gera með því að fylla úr sérstakt eyðublað (póstfangsbreyting) sem pósturinn hefur.

Nú hefur STÉTTABARÁTTAN fengið póstgíróreikning, nr. 27810. Það auðveldar ykkur að greiða áskriftirnar - nú getið þið gengið bæði í banka og pósthús og greitt þar.

Áskriftargjöld eru sem hér segir:

| | | |
|---|---|---|
| Venjuleg áskrift | : | 600 kr. |
| Stuðningsáskrift | : | 800 - |
| Baráttuáskrift | : | 1000 - |

## Seinkun blaðsins

Þetta eintak af Stéttabaráttunni kemur nú út 15 dögum á eftir áætlun. Orsakir þessarar seinkunar eru fyrst og fremst þær að ritstjórn hefur verið fáliðuð í sumar og þar að auki staðið í því að flytja ritstjórnarskrifstofuna. Upprunalega var ætlunin að vinna þetta eintak á gamla staðnum, en sökum tímabundins fámennis í ritstjórnarliðinu gátum við ekki annað því ásamt tilfærslunni á ritstjórnarskrifstofunni. Var því blaðið látið bíða fram yfir flutning. Um leið og við biðjum alla lesendur velvirðingar á þessari seinkun tilkynnum við útkomu væntanlegs aukablaðs (eða sérblaðs) sem fjalla eingöngu um baráttuna í Palestínu. Ritstjórnarfélagar voru nýlega á ferð í Líbanon í boði PLO (Frelsishreyfingar Palestínu) og hafa þeir unnið efni blaðsins. Þetta sérblað mun koma í lok júlí.

# ÁRIÐ ER HÁLFNAÐ!

Nú er árið hálfnað-en við höfum ekki náð 50%aukningu enn. En það er engin ástæða til að örvænta-á síðasta ári varð langmesta áskrifendafjölgunin síðustu þrjá mánuði ársins. En það er heldur ekki ástæða til að slá slöku við í sumar, þótt haustið sé eftir-ef við höldum okkar strik (rauðu línunni), þá er mögulegt að fara fram úr ársáætluninni, yfir 100 prósentin.

Sú áskrifendafjölgun, sem nú þegar er komin, nálgast það að gera blaðinu kleyft að ráða sér starfsmann - en herslumuninn vantar. Áskrifendasöfnunin hefur gengið mjög misjafnlega eftir landshlutum, besti árangurinn hefur náðst á Akureyri, 60%, sem þýðir að þeir eru á undan áætluninni. Neskaupstaður hefur einnig staðið sig mjög vel og er einnig á undan áætlun með 55%. Aðrir staðir sem eru á undan áætlun eru: Sauðárkrókur, Hornafjörður, Húsavík, Hveragerði, Akranes, Stykkishólmur, Hellissandur, Hafnarfjörður og Keflavík. Þeir staðir, sem eru nokkurn veginn eftir áætlun eru: Reykjavík (37%), Kópavogur (32%) og Ólafsvík (45%). Syndaselirnir í áskriftasöfnununni eru: Ísafjörður, Eskifjörður, Patreksfjörður, Selfoss, Borgarnes, og Siglufjörður.




Áskrifendafjölgunin á tímabilinu frá 17. maí til 7. júlí var 12,5% heldur hægara en á tímabilinu á undan. Heildarfjölgunin er því orðin 48%.

Við beinum þeirri áskorun til allra nýju áskrifendanna að greiða áskriftirnar við fyrsta tækifæri - blaðið er alltaf í fjárþröng og á útistandandi heilmikið fé í ógreiddum áskriftum. Það er hagur áskrifendanna að blaðið sé fjáhagslega sterkt, því þá er útgáfan reglubundnari og möguleikar ritstjórnar til að gera blaðið betur úr garði meiri.

# GERIST ÁSKRIFENDUR!

fylgir = Stéttabaráttan [1975]

# FÉLAGI!

Nú er tími reikningsskilanna kominn, þ.e. við erum að rukka áskriftargjöld STÉTTABARÁTTUNNAR fyrir árið 1975.
Fyrir dyrum standa mikil átök í útgáfu blaðsins. Í fyrsta lagi er það takmark okkar að ráða blaðinu starfsfólk. Í öðru lagi er ætlunin að auka útgáfutíðni blaðsins, og í þriðja lagi þarf fé til þess að búa útgáfuna betri tækjum.

STÉTTABARÁTTAN er ekki ríkt blað hvað fjármunum viðkemur, við ausum ekki úr neinum opinberum sjóðum og við höfum ekki neina auðmenn sem bakhjarl.
Og það er vel.
STÉTTABARÁTTAN er rekin með það fyrir augum að hún "geti staðið á eigin fótum".
Einu tekjur blaðsins er það fé sem kemur frá lesendunum; áskrifendum og þeim sem kaupa blaðið í lausasölu.
Það er því mikilvægt fyrir starf okkar við blaðið að áskrifendur standi sig vel og greiði skilvíslega áskriftagjöldin.

Við skorum því á þig að bregðast skjótt við þessu bréfi og senda okkur greiðslu.
Greiðsluna má inna af hendi með ýmsu móti, hagkvæmast og ódýrast er að greiða inn á gíróreikning STÉTTABARÁTTUNNAR (nr. 27810). Það má gera í öllum bönkum og pósthúsum.
Einnig er hægt að senda greiðsluna með póstávísun til STÉTTABARÁTTUNNAR, pósthólf 1357 Reykjavík.

Áskriftagjöldin eru sem hér segir:
Venjuleg áskrift kr. 600,-
Stuðningsáskrift kr. 800,-
Baráttuáskrift kr. 1000,-

Með félagakveðjum f.h. ritstjórnar

Hjálmtýr Heiðdal

Hjálmtýr Heiðdal

GULLNA REGLAN
Við viljum enn brýna það fyrir áskrifendum að tilkynna okkur ætíð þegar þið skiptið um bústað.
Þó nokkrir hafa trassað þetta og sitjum við nú uppi með nokkra tugi áskrifenda sem eru "týndir". Og þeir fá þaraf leiaðndi ekki blaðið.
Ekki villt þú vera einn af þeim?

SKRIFIÐ Í BLAÐIÐ
Til þess að STÉTTABARÁTTAN verði meira og betra blað er nauðsynlegt að lesendurnir láti meira í sér heyra.
Blaðið stendur öllum opið sem vilja leggja baráttu verkalýðsins lið.
Okkur væri það mjög kærkomið ef þið senduð okkur línu, t.d. um þá atburði sem gerast í kringum ykkur, á vinnustað eða annarsstaðar.

# Styrktarmenn Stéttabaráttunnar

Uppbygging STÉTTABARÁTTUNNAR er ekki auðvelt verkefni sem hægt er að leysa án fórna.
Og það erum við - lesendur og aðstandendur blaðsins - sem verðum að færa fórnirnar.
Aðrir koma ekki til greina.
Fórninrnar eru þó ekki til einskis, með sameiginlegu átaki eignumst við blað sem verður sífellt sterkari rödd fyrir hagsmuni verkalýðsins í öllum málefnum hans.
Fram til þessa hefur STÉTTABARÁTTAN byggt afkomu sína eingöngu á því fé sem greitt er fyrir áskriftir og lausasölu.
En það fé nægir aðeins til þess að halda blaðinu í horfinu.
Sameiginlegt markmið okkar hlýtur að vera það að byggja upp blaðið og gera það betur úr garði.
Með þetta í huga hefur ritstjórn komið á laggirnar styrktarmannakerfi STÉTTABARÁTTUNNAR.
Nú þegar hafa okkur bæst liðsmenn sem leggja fé í útgáfusjóð blaðsins mánaðarlega.
Þessi fyrsta tilraun með styrktarmannakerfið lofar góðu, en við teljum samt að hún hafi ekki verið nægilega undirbúin af okkar hálfu.
Við höfum því lagt hausana í bleyti á nýjan leik og komist að þeirri niðurstöðu að við verðum að fullkomna þetta kerfi.
Betrumbæturnar felast í því að styrktarmennirnir fá meira fyrir "snúð" sinn en venjulegir áskrifendur.
Þeir fá, í fyrsta lagi, sérstakt vikulegt fréttabréf (sem verður fyrsti vísirinn að vikulegri útgáfu STÉTTABARÁTTUNNAR).
Í öðru lagi fá þeir dagatal sem blaðið gefur út.
Dagatalið verður gert með sérstökum hætti, það mun vekja sérstaka athygli á merkisdögum úr baráttusögu verkalýðsins hérlendis sem erlendis.
Fleira er á döfinni varðandi styrktarmennina.

En hvað er það sem þú þarft að gera til þess að geta orðið styrktarmaður ?
- Þú verður að greiða mánaðarlega fé í útgáfusjóð STÉTTABARÁTTUNNAR.

Lægsta gjald er kr. 500 á mánuði, en við setjum engin takmörk fyrir því hvað menn geta lagt fram umfram þá upphæð (ef þú leggur fram 1000 kr. þá eru það ekki nema ca 35 kr. á dag).

Hagkvæmasta fyrirkomulagið fyrir okkur (og þig) væri að borga alla upphæðin á einu bretti. Það myndi auðvelda okkur alla útreikninga og áætlanagerð fyrir útgáfuna, einnig verður það minna umstang og kostnaður fyrir okkur (og þig).
En auðvitað er þetta ekkert skilyrði.

Til þess aðstyrktarmannakerfiðgeti komist á legg í sinni fullkomnu mynd verður að vera til staðar viss fjöldi styrktarmanna.
Við höfum reiknað það út að það þurfi um 100 styrktarmenn til þess að útgáfa fréttabréfsins geti hafist.

Það er því ekki nein ástæða fyrir þig að hika og bíða - því fyrr sem þú gerist styrktarmaður, því fyrr færðu fréttabréfið.

Leggðu fé inn á gíróreikning STÉTTABARÁTTUNNAR nr. 27810.
Mundu að skrifa nafn þitt og heimilisfang.

Með félagakveðjum f.h. ritstjórnar

Hjálmtýr Heiðdal

Hjálmtýr Heiðdal

SNÚ...

Til áskrifenda

Næsta tölublað Stéttabaráttunnar verður með dálítið sérstökum hætti.
Blaðið kemur ekki út undir nafni Stéttabaráttunnar; og er ekki gefið út á hennar vegum.
7.tbl. er sérblað sem fjalla eingöngu um Palestínu. Og það heitir PALESTÍNA.
Útgefendur eru undirbúningshópur að stofnun Palestínunefndar.
Stéttabaráttan kaupir hinsvegar hluta af upplagi blaðsins til þess að styrkja útgáfu þess, og sendir áskrifendum sínum.
Þetta blað kemur til ykkar nú strax í byrjun ágúst.
8.tbl. Stéttabaráttunnar kemur svo með "eðlilegum" hætti um 20. ágúst.

Ritstjórn